# ÁRDÍS

## ÁRSRIT BANDALAGS LÚTERSKRA KVENNA

### XVIII. HEFTI

Ritstjórar:

MRS. INGIBJÖRG ÓLAFSSON, Selkirk, Man.
MRS. ÞJÓÐBJÖRG HENRICKSON, Winnipeg, Man.

Fjárhagsnefnd:

MRS. INGA GILLIES, Winnipeg, Man.
MRS. FLORA BENSON, Winnipeg, Man.
MRS. GUÐRÚN ERLENDSON, Arborg, Man.
MRS. SARAH CHILDERHOSE, Selkirk, Man.
MRS. ELIZABETH BJARNARSON, Langruth, Man.

WINNIPEG, 1950

# INNIHALD



**Kallaðar heim:**

# Fjórðungsaldar afmæli

Á þessu sumri eru tuttugu og fimm ár liðin síðan stofnfundur Bandalags Lút. Kvenna var haldinn. Sízt er það viðeigandi að vera með nokkra mælgi um áhrif þess eða störf á þessu tímabili, en þó hygg ég að óhætt sé að fullyrða að meira hefur orðið ágengt heldur en nokkur þeirra, sem að félagsstofnuninni stóðu, gerðu sér von um í byrjun.

Nú horfum við ekki til baka, en við viljum aðeins lúta höfði í bæn og þakka algóðum guði fyrir leiðsögn hans. Hans náðarhendi hefur leitt okkur af einni tröppu á aðra. Styrkur hefur verið veittur fyrir hvert spor. Með þakklátum huga minnumst við allra þeirra félagssystra sem með okkur hafa starfað með trúmensku og einlægni.

Nú er annar aldarfjórðungur byrjaður, við horfum fram á leið með gleði og eftirvæntingu. Guð gefi að framtíð Bandalags Lúterskra Kvenna geymi í skauti sér mikið og dýrðlegt starf, unnið af fórnfýsi og óeigingirni, guði til dýrðar. *I. J. Ó.*

# Bandalag Lúterskra Kvenna 25 ára

*Bandalagið byrjað var*
*blysið kveikt í konu hjarta.*
*Systur hennar sáu þar*
*samvinnunnar ljósið bjarta.*
*Fyr þær höfðu fundið það*
*frelsið er ei takmarkað.*

*Þær leituðu til Lausnarans*
*lífsins strengir urðu hljóðir.*
*Fundu svarið frelsarans:*
*„Farið kristnið allar þjóðir“.*
*Í herrans nafni verkið vinn*
*vandlátur er Drottinn þinn.*

*Heilög sambönd þekkið þið*
*þráðinn sterka trúin finnur*
*Standið saman hlið við hlið*
*herdeild guðs að lokum vinnur*
*Yfir fljótið byggið brú*
*Betel guðs skal nefnast sú.*

*Konu höndin útrétt er*
*elsta trausta handartakið,*
*arminn hennar einn Guð sér,*
*andans þekkir vængja blakið.*
*Driffjöðrin er dyggðum prýdd*
*dagsins upprás ljóma skrýdd.*

*Á bökkum vatnsins búa þær,*
*báran lætur til sín heyra.*
*Oft á veika strengi slær*
*snertir viðkvæmnt móðureyra.*
*Börnin til vor hrópa heim*
*úr hringiðunni, björgum þeim.*
*Móður brjóstið líknarlind*
*lífs afkvæmi sínu gefur:*
*sálarinnar sönnu mynd*
*sem guð skóp og valið hefur,*
*til að elska, til að þjást,*
*túlka það sem aldrei brást.*

*Enginn hamar, engin sög*
*engin högg á konu mótið,*
*þeirra eru lífsins lög*
*láta kjarkinn brúa fljótið*
*efniviður — eik og stál*
*allir strengir líf og sál.*
*Stöplarnir eru stuðlaberg*
*stofninn góði ættarinnar.*
*Borið í blóð og merg*
*bæta kjörin þjóðarinnar.*
*Bandalagsins blysið rís*
*boðar nýja Paradís.*

*Einn er brunnur blessunar*
*barnahópinn þangað leiðið.*
*Verið klettur kirkjunnar*
*klæðin dýru á veginn breiðið —*
*helga skykkju hreinleikans.*
*Hefijið merki frelsarans!*

*Ingibjörg Guðmundsson.*

# „Blárra tinda blessað land"

Eftir MARGRÉTI STEPHENSEN

*Skáldið syngur:*
*„Ég vil elska mitt land, ....*
*Ég vil auðga mitt land,*
*Ég vil efla þess dáð, ég vil styrkja þess hag.*
*Ég vil leita að þess þörf,*
*Ég vil létta þess störf,*
*Ég vil láta það sjá margan hamingjudag".*

Já, „landið er enn fagurt og frítt" og enn kveða skáldin um ættjarðarást. Endalaus tilbreyting á myndasýningu Íslands, opnast upp fyrir augum ferðalangsins sem virðir fyrir sér með huga og hjarta — Íslands skrúð. Hin bláu vingjarnlegu fjöll, hinir háu hólar sem „hálfan dalinn fylla", vötnin allsstaðar, hin voldugu fljót sem ennþá er verið að brúa; grænar hlíðar og lítill bóndabær með rauðu þaki, einmanalegur — en hver veit hvað er „bak við fjöll og djúpa dali": maður þekkir aðeins að þetta er Íslands lag, sem við sungum um í æsku í hinu nýja landi.

Hraunin vekja meðaumkvun, þau eru merki þeirra hríða sem landið hefir stunið undir er náttúran var að heyja sitt alda stríð. Þegar náttúruöflin byrja sín umbrot, er maðurinn hjálparlaus. Og þegar hríðin er liðin er landið, sem áður var grasi vaxið og blómum skreytt — hlaðið gráum hraunum, eins og gömul móðir sem er orðin hrukkótt og elli hrum. Svo sér maður glitta í litla bletti þar sem smáblóm eru að pota sér upp. Já, þau eru lýti, þessi ör sem landið ber á brjósti sér, en fólkið sem elskar land sitt tekur varla eftir þeim; þeir eru uppteknir við starfið sem liggur fyrir: að „efna þess hag".

Eitt aðal lundareinkenni Íslendinga er þeirra sterka ættjarðarást, sem lýsir sér í kvæðum og söngvum þjóðarinnar. Ekki eru þeir neitt að troða henni ofan í þá gesti sem heimsækja þá, heldur er það eins og þegar gestur kemur á heimili og allir leggjast á eitt að sýna honum það sem fallegast og virðulegast er af því sem heimilið á til. Tignarleg náttúra, fríð og tilbreytileg, og alla hina söguríku staði sem þjóðin hefir verndað og varðveitt gegnum aldirnar.

Já, ættjarðarást og frelsisþrá er fyrst og æðst í huga hvers Íslendings. Og af því að ættjarðarást fylgir ýmislegt annað, og að mannsandinn er svo margbreytilegur, villist hún oft út á öfga brautir, því frelsisþrá Íslendinga hefir ávalt verið eitt þeirra sterkasta einkenni. Þessir öfgar eru ekki aðeins að hitta þar, en hafa fleygt höftum sínum víða um heim og gert glundroða. En þetta lagast þegar jafnvægi kemst aftur á hugsunarhátt þess fólks sem horfir áfram, og kann að meta sitt frelsi — hve dýrmæt er eignin.

Nú eru Íslands synir og dætur að „auðga landið og styrkja þess hag". Með sinni mannfæð og sínu litla pundi er þjóðin samt örugg og stórhuga eins og forfeðurnir forðum daga. Alla reiðu hafa störfin verið létt því Ljósafoss sendir sinn kraft inn á heimilin og gerir mögulegt að vinna á klukkustundum það sem áður útheimti mörg dagsverk. Húsmóðirin blessar þennan kraft sem náttúran hefir lagt henni í hendur og sem hefir svo „létt hennar störf".

Allur útbúnaður við aflkerfið að Ljósafoss er með nýjasta sniði, bæði bygging og maskínur; enda hefir Steingrímur Jónsson, yfir orkufræðingur þar, ferðast víða um önnur lönd sér til upplýsingar og hjálpar við starf sitt.

Lengi voru hverirnir ónotaðir; þeirra hvíta gufa lagði upp úr jörðinni, en menn áttu enn enga hugsjón um það ótakmarkaða afl sem var í þeim fólgið. En íslenzk skáld höfðu altaf hvatt þjóðina til framkvæmda. Skáldið syngur:

*„Nú er dagur við ský heyr hinn dynjandi gný.*
*Nú þarf dáðrakka menn — ekki blundandi þý,*
*Það þarf vakandi önd — það þarf vinnandi hönd*
*til að velta í rústir og byggja á ný".*

Og loks rann upp sá dagur að „Hitaveita Reykjavíkur" tók til starfa. Saga hitaveitunnar hefst með byggingu og leiðslu pípu línu frá gömlu þvottalaugunum árið 1930, og er notað enn í dag. Seinna var byrjað að bora að Reykjum í Mosfellssveit og sumaraði 1939 var gerður samningur við danska verkfræðinga að hafa umsjón með verkinu: með því að þeir höfðu um leið útvegað lán í Danmörku fyrir þetta mannvirki.

Svo skall á stríðið, og eftir að Danmörk var hertekin var erfitt að fá efni til verksins. Þá var leitað til Ameríku. Tvisvar var skipum með efni frá Ameríku sökkt. En allir sem að þessum málum

stóðu, unnu óaflátanlega að því að hrinda verkinu í framkvæmd — og 1943 var heitt vatn leitt í þúsundir húsa í Reykjavík; og eru Íslendingar maklega stoltir af þessu mannvirki, þjóðin er að „láta sitt land sjá margan hamingjudag“.

Meira og meira er verið að læra að notfæra hverina, sérstaklega fyrir gróðrarhúsin sem framleiða nú allskonar grænmeti og máske með tímanum ýmsa ávexti. Vínber (grapes) vaxa í gróðrarhúsunum, en þau eru afar dýr. Alt grænmeti er líka afar dýrt, og þó eru tómatar, blómkál og karrot á borðum daglega í Reykjavík.

En mest undraðist ég yfir fegurð blómanna sem vaxa í gróðrarhúsunum og eru daglega til sölu í blómabúðum Reykjavíkur. Chrysanthemums, smáar og stórar, carnations, sem þar heita Nellikur, gladiolur og rósir — þetta er Íslands nýja skrúð. Alstaðar á götunum mætir maður fólki með blómvönd í gegnsæum umvefjum sem eiga að færa heimilinu lifandi ilm. Jörðin er ótrúlega rík af gróðrarefnum og blómin í listigörðum Reykjavíkur og Akureyrar eru frámunalega falleg.

Það fyrsta stórverk sem nú liggur fyrir landinu, er trjárækt. Víða um heim hafa löndin neyðst til að læra þá dýrkeyptu lexíu að ekki má eyðileggja gras og skóg án þess að landið beri síðar meir ósigur, og hætti að framleiða það sem maðurinn þarf til lífsviðurværis. Svo að nú er verið að tala og prédika skógarrækt: klæða landið aftur hinum litgræna, hlýja skógi. Síðastliðið sumar var nefnd frá Noregi sem ferðaðist um og rannsakaði möguleika í samráði við Íslendinga. Helzt hafa verið notaðar trjátegundir frá Noregi og Alaska og eru þær fluttar til Íslands í flugvélum.

Mér var það sérstök ánægja að fá tækifæri til að ferðast til Hallormsstaðar og sjá hinn fagra skóg þar. Ríkisstjórn Íslands hafði boðið sínum heiðursgestum, Dr. Vilhjálmi Stefánssyni og frú og Guðmundi Grímsson dómara og frú að fara strandferð með „Esju“ og var áformað að koma við í kaupstöðum á suður, austur og norðurlandi þar til komið var til Akureyrar og þaðan að keyra til Reykjavíkur. Ferðin var yndisleg, veður yfirleitt gott, og fólk undi sér vel á skipinu við ágætar máltíðir, ótakmarkað kaffi og skemtun á kvöldin. Dr. Ófeigur Ófeigsson, sem áður var hér vestra við nám — var „Master of Ceremonies“ á ferðinni.

Þegar við komum til Reyðarfjarðar var farið í land og upp í rútur (buses) sem svo lögðu á stað að skoða Hallormsstaðaskóg og gróðrarstöðina þar — þriggja tíma ferð hvora leið. Mér fannst er

ég keyrði í gegnum skóginn, að ég gæti verið í umhverfi nálægt Winnipeg. Gróðurstöðin við Atlavík var sýnilegur vottur þess hve mikil framför hefir átt sér stað á síðari árum. Verkið heldur stöðugt áfram undir umsjón frænda míns, Guttorms Pálssonar.

Hér var ég á Austfjörðum, þaðan sem foreldrar mínir höfðu flutt 1876. Eðlilega þráði ég að geta heimsótt æskustöðvar foreldra minna í Jökuldal og Skriðdal, en minn tími var afskamtaður, og ég varð að láta mér nægja að hafa séð Hallormsstað, þar sem föðurbróðir pabba, séra Sigurður Gunnarsson (eldri) var prófastur þegar þau kvöddu landið. „Ég sé ykkur aldrei framar", sagði hann er þau kvöddu.

Þegar við keyrðum aftur til baka þar sem skipið lá við Eskifjörð, var sólskin og indælt veður. Og eftir því sem kvöldkyrðin færðist yfir landið, var eins og Austurlandið mitt væri að kveðja með sinni fegurstu sýn. Ég horfði yfir fagrar grænar grundir, og sólin glampaði á smá stöðuvötn og smá fossa í fjarlægðinni — og alt umkringt af hinum bláu, vingjarnlegu fjöllum, eins og væru útverðir náttúrunnar. Það var sem einhver himneskur friður hvíldi yfir landinu. Íslands skrúð! Svo stigum við um borð og ferðin hélt áfram.

Á Siglufirði var stór og ágætur karlakór á bryggjunni til að fagna heiðursgestunum með íslenzkum söngvum — í húðar-rigningu! Söngurinn var guðdómlegur, og mennirnir sýndust varla varir við að úrkoma væri úr lofti. En þegar þessi hátíðlega stund var liðin var víða tár í auga sem átti alls ekkert skylt við rigninguna. Þetta var íslenzk gestrisni. Bæjarstjórinn bauð svo öllum frá Esju að skemta sér við söng og dans og kaffidrykkju. Svo var siglt áfram fram hjá Ingólfshöfða og Langanesi. Þá var okkur gert aðvart um að nú væri verið að nálgast heimsskautsbauginn. (Arctic Circle). Þetta var í fyrstu viku júlí og nætur voru albjartar. Og nú sáum við miðnætursólina, og er dýrð hennar ógleymanleg. Sólin var að síga í sæinn — það var eins og hún kysti rönd sjávarins og kvaddi svo til að framkvæma aftur skyldu sína við jörðu.

Á Akureyri var ágætur karlakór á bryggjunni, svo var fólkið keyrt í bílum um bæinn. Okkur var sýnd Matthísasarkirkjan, sem er með „modern" sniði: svo keyrðum við í gegnum listigarð og gróðurhús, því skóg og blómarækt er á háu stigi á Akureyri. Fallegur bær með miklu víðsýni. Svo kvöddum við skipið og kafteininn, Ingvar Kjaran, sem hafði verið okkur gestunum svo góður á þessari

vikuferð. Svo var farið upp í fjóra stóra bíla (buses) og lagt af stað til Reykjavíkur.

Þegar ég var að ferðast hina löngu leið frá Akureyri til Reykjavíkur, var efst í huga mínum, ekki hvað vegurinn er mjór og þröngur svo að bílar verða að mætast á vissum stöðum til að geta komist áfram, heldur hvaða framfarir það eru að geta ekið í gasbílum nú þar sem áður var ferðast á hestbaki yfir heiðarnar, eða fótgangandi. Auðvitað getur maður flogið milli Reykjavíkur og Akureyrar á 1½ kl.st.; en með bíl er ferðin 13 kl.st.

   

Þegar fátækir Íslendingar komu til Vesturheims til að byrja á ný búskap á erlendan hátt, komu þeir flestir með tvær hendur tómar og lítinn gjaldeyri. En þeir höfðu þjóðar einkenni sem voru meira virði en dollarar. Ótakmarkað þrek sem hjálpaði þeim í gegnum erfiðleika hinnar nýju heimsálfu; þeir voru vandvirkir við vinnu sína, prúðir í framkomu, flestir; en aðal einkenni þeirra var að þeir voru áreiðanlegir í viðskiptum; þeir elskuðu söng og músik og ljóð og sögur, og síðast en ekki sízt — þeir voru guð-elskandi fólk. Alt þetta fluttu þeir með sér frá Íslandi og það varð eign hins nýja lands.

En þegar Vestur-Íslendingar fara „heim", hvaða gjafir hafa þeir meðferðis til að leggja við fætur Fjallkonunnar? Ást til ættjarðarinnar og virðing fyrir þeim söguríku stöðum sem landið hefir að geyma í skauti sínu; tryggð til tungunnar og bókmenta fjársjóðs landsins, því eftir 75 ár er ennþá strítt við að halda henni við líði — sem bersýnilegast er í þeirri fjársöfnun sem nú á sér stað til stofnunar kenslu við háskóla Manitoba í íslenzkri tungu og íslenzkum bókmentum. — Kærleikur til heimahaga og frænda, jafnvel þeir sem aldrei hafa Ísland litið fyrr en þeir komu „heim". Alt þetta, og margar fleiri andans gjafir leggjum við á altari Fjallkonunnar, og biðjum hana að þiggja. — „Þú bláfjalla geimur með heiðjökla hring" var uppáhalds lag föður míns, og þegar ég fyrst steig á grundu Íslands, var mér klökkt í huga — þó ég sé Vestur-Íslendingur, fædd í Nýja-Íslandi. En hugur minn söng þetta lag: „Þetta er land feðra þinna, þetta blárra tinda blessað land".

   

Það er ekki mikil fegurð í kringum Keflavíkur flugvöll vegna hraunanna alstaðar, en Ameríksir verkfræðingar völdu þennan

stað fyrir flugvöll vegna útsýnis og víðsýni sem gaf tækifæri til varnar ef árás yrði gerð.

En Ísland tjaldar sinni fegurstu skrúð þegar þú heimsækir Gullfoss og Geysir, Þingvöll og Almannagjá og Lögberg, og staðnæmist við Oxarár foss, þá komu í huga minn kvæðin sem ég hafði heyrt ung um stofnun Alþingis á þessum söguríka stað. Á Þingvöllum eru líka sumarheimili Reykvíkinga og þangað keyra menn til að lyfta sér upp, því það er aðeins klukkustunda keyrsla frá Reykjavík — álíka og frá Winnipeg til Húsavík, þar sem sumarbúðir Bandalags lúterskra kvenna eru. Þar er ágætur gististaður, Hótel Valhöll, og hvert sem maður keyrir er útsýnið dýrðlegt, sumstaðar hrikalegt — en alstaðar tignarlegt. Hotelið og sumarheimilin eru byggð í kringum hið rólega, tæra Þingvalla vatn.

Á Þingvöllum eru leiði tveggja stórskálda Íslands: Jónasar Hallgrímssonar og Einars Benediktssonar. Þeir hvíla þar undir stein töflum.

Ég var þrisvar á Þingvöllum, og í hvert skifti var mér boðið nýtt útsýni. Það má keyra þar endalaust margar klukkustundir, og sjá altaf nýja og tilbreytilega náttúru. Þegar ég klifraði upp á Lögberg og stóð þar og leit yfir landið „fagurt og frítt og fannhvítir jöklanna tindar“, hugsaði ég ósjálfrátt um landnemana í Nýja Íslandi, sem undir eins skipulögðu sín sveitarlög og reglur í byrjun.

Ég hafði ánægju af því að skoða ýmsar byggingar í Reykjavík sem eru með nýjasta sniði: Háskólinn, Sjómannaskólinn, Þjóðminjasafnið og Þjóðleikhúsið sem var opnað á sumardaginn fyrsta. Allar þessar byggingar eru það sem við köllum „ultra modern“.

Ég var boðin á móttöku að Bessastöðum, heimili forseta Íslands. Við skoðuðum heimilið og eftir að veitingar voru fram bornar — hina gömlu Bessastaða kirkju og kirkjugarðinn þar sem eru mörg gömul leiði, meðal annars Gríms Thomsen skálds.

Ég eyddi degi til að skoða Reykjalund, sem er nálægt Reykjavík, og er fyrirtæki til hjálpar berklasjúklingum sem leyft hefir verið að yfirgefa heilsuhæli. Það heitir „Vinnuheimilið að Reykjalundi“, og er vistmönnum leyfð takmörkuð vinna svo þeir geti verið sjálfstæðir. Til frekari upplýsinga vil ég benda á grein er ég skrifaði fyrir blaðið Icelandic Canadian í haust.

Rétt áður en ég lagði af stað heimleiðis var mér boðið á sýningu sem haldin var af Júlíönu Sveinsdóttur, málara. Er hún

fræg fyrir sín málverk, en þar að auki er hún útlærð í alskonar vefnaði, og þessi sýning var af hvorutveggja. Í öðrum salnum voru sýnd málverk Frk. Júlíönu, en í hinum sýnishorn af vefnaði hennar. Ég eignaðist fallegt, lítið ullarteppi (rug) sem mágkona hennar, en frænka mín— frú Soffía, dóttir séra Haraldar Nielssonar og Bergljótar fyrri konu hans — gaf mér.

Mér gafst einnig tækifæri að skoða safn Einars Jónssonar, sem olli mikilli hrifning, sérstaklega ein mynd sem hann nefnir „Sorgin“. Var gestkvæmt kringum kaffiborðið, og ég minntist þess að hafa verið í boði með þeim hjónum í Winnipeg þegar þau heimsóttu Íslendinga þar, 1918. Okkur þótti það heiður þá að mæta þessum unga listamanni og konu hans.

Rétt áður en ég bjóst í heimferð, kallaði Rikarður Jónsson, myndskeri mig upp og sagði að ég væri náskyld konu sinni, Maríu. Mér var boðið í kaffi og svo sýndi hann mér sitt safn, og er ég honum og konu hans þakklát fyrir þessa gestrisni og frændsemi. Sorgin hefir snert þau á ýmsa vegu, þó eru þau róleg og kærleiksrík.

Þegar ég fyrst kom til Reykjavíkur mætti ég gömlum vinum, séra Friðrik Hallgrímssyni og frú Bentínu, og voru gleðilegir endurfundir eftir 25 ár. Þar gafst mér einnig tækifæri að heilsa uppá biskupin, séra Sigurgeir Sigurðsson, og að kynnast hans inndælu konu, frú Guðrúnu. Seinna var ég í boðum hjá báðum þessum hjónum og naut þeirra gestrisni.

En áður en ég fór frá Reykjavík, veiktist séra Friðrik, og reyndist það hans banalega. Ég var viðstödd greftrun hans, sem var hátíðleg athöfn. Söngurinn var hrífandi, enda þar kvaddur maður sem almennt var elskaður og virtur af öllum.

Mig langar til að minnast lítillega á Rauða Kross starfsemi Íslands og þáttöku þess í U.N.I.C.E.F., sem er söfnunin fyrir húngruð börn í Evrópu. Það er ef til vill, lítt kunnugt, almennt, að Ísland safnaði, árið 1948 meira p.c. en nokkur önnur þjóð. Systursonur mannsins míns, Þorsteinn Sch. Thorsteinsson lyfsali og eigandi Reykjavíkur Apotheks; er forseti Rauða Kross Íslands og gaf mér heimildir um þetta stórfenglega starf. Hann hefir setið þing R.K. í ýmsum höfuðborgum og var boðin á United Nations fund í fyrra. Var hann, fyrir hönd Íslands, meðtakandi þakkar bréfi frá Tryggve Lie.

Ég heimsótti Elliheimilið „Grund“ í Reykjavík. Er það afar stór bygging, enda um 250 vistmenn, að meðtöldum nokkrum

fötluðum unglingum. Ég var viðstödd morgun guðsþjónustu, stjórnað af séra S. Ástvaldi Gíslasyni, og flutti kveðjur frá gamla fólkinu að vestan.

Einn inndælann sólskinsdag heimsótti ég pláss rétt fyrir utan Reykjavík, sem heitir „Jaðar“. Er það Good Templara familíu hotel eða gististaður, sem fólk notar í sumarfrii. Þar drakk ég kaffi og ágætar, ný bakaðar pönnukökur. Svo sátum við úti, eftir að hafa skoðað heimilið, og nutum náttúrunnar sem þar er alveg ósnert af manna höndum. Ég sat þar á þúfu og virti fyrir mér hin grasi gróin hraun, og sólin glampaði á litlu smávötnin sem eru alstaðar á Íslandi.

Eitt af því sem ég hafði endalausa ánægju af að skoða, voru fuglarnir hans Guðmundar Hlíðdal. Þetta er byrjun á „pottery eða ceramics“ iðn sem gæti orðið Íslandi til blessunar og innunnið dollara fyrir landið. Agnes Rothery, í bók sinni, „Iceland, The New Outpost“ — segir að séu fimm tegundir af leir á Íslandi sem nota megi fyrir svona iðn. En peninga vantar til stofnunar slíks fyrirtækis, en þessi iðn í Danmörku er miklu lengra á veg komið og fullkomnari. Samt er inndæl Krían og rjúpurnar og litlu elskulegu máfarnir — og vænt þykir mér um Smalastúlkuna mína.

Fjallið Esja er nokkurskonar útvörður Reykjavíkur og allir Reykvíkingar elska Esju. Ég var með kveðju til Esju frá séra Sig. Ólafssyni í Selkirk, og henni skilaði ég einn inndælan sólskinsdag er ég var gestur þar nálægt. Fjallið er mosa vaxið og blátt eins og Íslands fjöll, en þegar sólin skín er litbreytingin undursamlega fögur. Ég var eitt sinn í bíl og var að tala um þetta við frænkur mínar. Þá sagði bílstjórinn, „Já, en þið ættuð að sjá Esju í tungsljósi“ — Ættjarðarást! Esja og Snæfellsjökull sjást frá Reykjavík og þó jökullinn sé í mikilli fjarlægð, er oft horft vestur í góðu skygni þar sem hann sézt — snjóþakinn — og sagt „Þarna er Snæfellsjökull.“

Ég vildi með fám orðum minnast á heimsókn mína að Útskálum, þar sem séra Eiríkur Brynjólfsson — sem þjónaði mínum söfnuði í Winnipeg í eitt ár — er prestur. Veðurmaðurinn var góður við okkur þennan dag og sólin skein og hafið var skínandi bjart. Endurfundir voru inndælir; frú Guðrún og séra Eiríkur tóku á móti mér, ásamt þremur systurdætrum mannsins míns,

með gestrisni og kærleika. Við skoðuðum heimilið og myndir, og Útskála kirkju — og drukkum svo kaffi.

Þegar kaffi drykkju var lokið var farið uppí bílinn og keyrt af stað að skoða Hvalsnes kirkju, sem tilheyrir Útskála prestakalli og er sérstaklega söguríkt af því Hallgrímur Pétursson var þar prestur þegar hann var fyrst vígður. Hann mætti töluverðri mótspyrnu þar svo þjónustan var stutt; það var ekki fyr en hann náði meiri þroska og sneri um blaðinu og fór að þjóna Guði af lífi og sál og kröftum, að hann fékk sína viðurkenning hjá þjóðinni. En Passíusálmar Hallgríms Péturssonar eru sameiginleg eign og arfur bæði Íslenzku þjóðarinnar og okkar Vestur-Íslendinga. Útskála prestakall er á suðurrönd Íslands, nokkurskonar „Lands End“ eins og á Englandi, en útsýni er víðáttumikið og fagurt. Landbúnaður mikill í þessari syðstu sveit landsins, og þennan dag var verið að heyja og hirða eftir beztu getu. Alstaðar voru gripir að seðja hungur sitt eða að hvíla sig í ró, eins og nautgripa er vani.

En á hinn bógin er hafið, sem er uppspretta þess fiski auðs sem Ísland reiðir sig á árlega. Síld hefir brugðist að miklu leyti nú í fimm ár, en senn kemur auðurinn aftur — með Guðs vilja. Landið eyddi miklu af sínu láni, (Marshall aid) í að kaupa togara og útbúnað af nýjasta tægi, því landar vilja ætíð hið bezta — en síldin hefir hulið sig og skuldir eru miklar. En biblían kennir okkur, og náttúran endurtekur — að alt tekur enda og að eftir nokkur mögur ár, kemur góð vertíð og aftur verður fiskað. Þeir sem leita út á mið Íslands eru að „auðga sitt land og efna þess hag.“

   

Ég átti afmæli 28. ágúst og stóð það til að ég legði á stað þann dag með flugvélinni frá Keflavík áleiðis til New York. En þegar ég kom á skrifstofuna til að leggja inn farmiða minn, var farið fram á við mig að býtta við Vestur-Íslending sem gjarna vildi komast burt þennan dag, en hafði sjálfur farmiða fyrir 30. ágúst. Ég var als ekki viljug fyrst að breyta minni fyriræltlan, en spurði samt: „Hver er þessi maður?„ “Það er prestur, séra Sveinbjörn Ólafsson frá Bandaríkjunum“, sagði stúlkan. Þá blíðkaðist ég og sagði ungfrúnni að gera breytinguna. Gat þess að ég hefði þekkt móður hans að öllu góðu.

Svona atvikaðist það að ég átti afmælisdag á feðrastorðinni sem mig hafði aldrei dreymt að ég myndi sjá. Ég var gestur á

heimili Lauru og Magnúsar Sch. Thorsteinsson, en Magnús er sonur Davíðs Sch. Thorsteinsson, læknis og Þórunnar Stephensen, systir mannsins míns. Bæði dáin fyrir nokkrum árum.

Veizlan sem Laura hélt mér þennan dag var með afburðum skemtileg og kærleiksrík. Þar var viðstödd mágkona mín, sú eina sem eftir er lifandi af systkinum mannsins míns; frú Ástríður Petersen, ekkja séra Ólafs Petersen. Er hún áttræð, en skír og ern og skemtileg í viðræðum eins og það fólk. Einnig Ragnheiður og Anna Guðjohnsen, systurdætur mannsins míns og dætur Einars læknis Guðjohnsen, — bróðir frú Láru Bjarnason.

Ég kvaddi mitt nýja skyldulið sem ég hafði eignast og kynnst og haft glaðar stundir með. Gunnar Gunnarsson skáld og frú Franciska, systurnar Soffia, Elin og Guðrún, dætur séra Haraldar; Guðný Viljálmsdóttir og séra Sveinn Víkingur og frú Sigurveig; Sigurður Baldvinson póstmeistari og frú Oktavía; Guðrún Gunnarsdóttir og Soffía Sigurðsson systir Gunnars skálds. Hjartans þakkir fyrir alla ástúð!

Nú fór tíminn að styttast. Síðasti dagurinn var upptekin frá morgni til kvölds sem var gott. Eftir kvöldverð var lagt af stað í tveimur bílum til Keflavíkur, því þar varð ég að gista mína síðustu nótt, með því von var á flugvélinni kl. 6 að morgni. Svo kom kveðjustundin. Laura og Magnús og börnin, Bergþóra og Þorsteinn, Anna, Þórhildur og Guðrún og Einar — þetta inndæla fólk sem hafði umvafið mig kærleiksörmum og gert mér svo eftirminnilega þessa dvöl á fósturjörðinni.

Ég kvaddi Ísland kl. 6 næsta morgun. Þó, fyrir framan augun væru Keflavíkur hraunin — sá ég í anda aftur Gullfoss og Geysir, Þingvöll og Lögberg, Laugarnesdalin og Siglufjörð og Akureyri; Hallormsstaði og Austurlandið mitt; og Reykjalund, þar sem góðir Íslendingar eru að gróðursetja mannúð og kærleika og fylgja boðum frelsarans. Og heimilin í Reykjavík sem tóku á móti mér með opnum örmum og buðu mig velkomna til Íslands. Hjartans þakkir og kær heilsan!

Það var hálfbjart kl. 6 þegar flugvélin sveif upp í loftið, en von bráðar var komið sólskin. Þá var augljós Guðs dýrð og — „Himininn kunngjörði festing hans handa“, já himininn heiður og blár og hafið skínandi bjart; en brátt hvarf hafið og viðtóku hvítir skýjabólstrar sem voru alstaðar fyrir neðan loftfarið okkar. Stundum líktist skýið fjölluð og alskonar náttúru myndum, endur-

speglað í himin dýrðinni. Alstaðar líkingar af landi og sjó og yfir öllu Guðs eilífi himinn — heiður og blár. Flugvélin leið áfram og ég hugsaði með hrærðu hjarta til ættingjanna sem ég hafði kvatt á fósturjörðinni — og heim til Winnipeg, þar sem börnin mín og vinir biðu mín.

Og ég þakkaði fyrir þann ríkdóm náðar sem ég hafði, með Guðs hjálp, eignast.

---

## SÆMDARHJÓN EIGA GULLBRÚÐKAUP



**Mr. og Mrs. Th. Anderson**

Á mánudaginn þann 4. september áttu þau hjónin Mr. og Mrs. Thorður Anderson 1040 Sherburn St., hér í Winnipeg gullbrúðkaupsafmæli og var þess minst með virðulegri og fjölmennri móttöku á heimili dóttur þeirra og tengdasonar Mr. og Mrs. I. C. Ingimundson, Brussell Apts. Þessi mætu hjón komu ung frá Íslandi og áttu heimili í Selkirk um 43 ára skeið; undanfarin sjö ár hafa þau verið búsett í Winnipeg. Þau hafa jafnan tekið virkan þátt í íslenzkum safnaðarmálum og hvarvetna komið fram íslenzku mannfélagi og sjálfum sér til sæmdar.

# Resurrection

The garden, belonging to Joseph of Arimathea, was a poem of natures beauty, of disordered and rugged loveliness. Boulders and rocks were strewn here and there in careless confusion. Cypress trees, gnarled oaks and dark groves of cedar, rose to uneven heights and thickets with grapevines filled low lying places. Silver threaded rivulets and gurgling brooks leaped and danced over rocks and under mossy stones and lost themselves in deep shadowy crags and dense fernery.

Here was a soft velvety slope dappled with lights and shadows, fragrant with perfume and gleaming with colors of the rose, mignionette and jasmin. There a rocky upland reared it's head as sentinel over all and into this rock a tomb had been hewn.

The entrance to this tomb was arched by an old twisted oak, whose knotted branches interlaced in sombre dignity. At the foot of this majestic tree, lily seeds had fallen and in time raised their stalks bravely and bloomed. The gleaming, white shallow cups held up by dwarfed stems, lighted up the darker place beside the opening of the tomb.

This day began as all other days. Daylight moved down from the hilltops and was welcomed lustily by the song of birds. The sunbeams, strong and warm, filtered through the trees and speckled the swards of summer green. All became radiant and the breeze sang through the murmuring grass.

As the day passed the sky darkened. Shadows filled the coves and flowers bowed their heads before the moaning wind as if in fear. The sky, now black and threatening, rumbled and flashed angered lightning. The trees bent low and the lillies at the foot of the old oak, cowered and folded their white petals in terror as the very earth quivered.

Then came a stillness, an awesome silence. The darkened clouds turned to gray and the sun sent beams of light to the summit of a nearby hill, overlooking a deep, rocky crevice. Sunbeams shone on three crosses that rose black and stark against the sky.

The lillies looked up. The terror was passing and soon peace was restored to the garden. Sunshine stole down the hillside and all seemed well again.

Down from the summit of the hill came a group of people. Grief stricken men carried their burden, led by Nicodemus and Joseph of Arimathea. As they neared the tomb the lillies lifted their heads in happy recognition. They knew him well, Joseph had so often walked in this garden.

Carefully, silently, the body they carried, was laid on a ledge in the tomb. Linens and vessels of oils and spices were taken by Nicodemus and carried into the tomb. Soldiers came and drove the men and weeping women away and with great difficulty, pushed a huge stone into the opening and closed the entrance to the tomb. One came forward and placed the seal of state upon the stone. Joseph and his friends walked reluctantly away, leaving the soldiers in charge.

The guards talked and laughed, but soon, in weariness quietened and rested on their swords. The chill mist of night swept about them and time moved slowly to gray and gloomy dawn.

The lily bed had been trampled ruthlessly and the drooping blooms rested their bruised heads in the soft, sodden earth. Their short stems were broken and tattered leaves hung limply.

The guards were replaced and the weary hours of a dreary day passed slowly by.

Night shades crept over the hills and sleep wove it's spell over all. Rocks and trees stood guard against the blue of the sky, now filled with stars.

The one lily that had escaped the heels of soldiers, nodded drowsily. Suddenly it looked up. The air was filled with a radiance, a brightness different from all other light. A shimmering mist brushed the dew laden grasses and left in their wake a soft light.

Guards sprang up and saw the stone roll gently away from the entrance of the tomb. They covered their eyes as from a blinding light and panting in fear, ran swiftly down the path toward the city.

Birds twittered as at dawn and light penetrated the darkened shadows. He that had been carried into the tomb, stood in the entrance, enveloped in radiance. He looked about and as He passed the bed of broken, faded lillies, bent down and carressed them lovingly.

The trampled flowers raised their bruised heads and beheld the glory. They felt the healing touch and trembled as their stalks straightened and their torn leaves healed and expanded. The lowly

dwarfed flowers stood tall and erect, sheathed in curving leaves. The petals, once so shallow and pointed, were now deep chaliced cups of gleaming white, holding in their depths, hearts of gold.

The Wondrous Light passed on and left the sacred stillness of the lighted tomb in the care of two Celestial Beings.

THJÓÐBJÖRG HENRICKSON

---

# Lætur ekki á sjá þrátt fyrir árin

Þann 29. júní síðastliðinn átti áttræðisafmæli frú Þórunn Vigfúsína Beck, sem búsett er hér í borginni; hún var fædd að Litlu Breiðuvík í Reyðarfirði 29. júní árið 1870. Foreldrar hennar voru kunn sæmdarhjón austur þar, Vigfús Eiríksson og Valgerður Þórólfsdóttir; hún er ekkja eftir Hans Kjartan Beck, og bjuggu þau hjón fyrst á Svínaskálastekk. Frú Vigfúsína, eins og hún venjulegast er nefnd fluttist vestur um haf árið 1921 og hefir lengstum átt heima í Winnipeg; hún á tvo mannvænlega og ágæta sonu, Dr. Richard Beck prófessor í Norðurlandamálum og bókmentum við ríkisháskólann í North Dakota, þjóðkunnan fræðimann, og Jóhann, farmkvæmdarstjóra við Columbia Press Limited.



**Frú Þórunn Vigfúsína Beck**

Frú Vigfúsína ber aldurinn svo vel, að örðugt er að átta sig á að hún hafi náð þeirri áratölu, sem hér um getur; hún er höfðingleg ásýndum, háttprúð, en jafnan, ef svo ber undir, með spaugsyrði á vörum; hún hefir ósegjanlegt yndi af lestri góðra bóka, en á nú á seinni árum örðugt með slíkt vegna sjóndepru; hún er frábærlega vinföst kona og óbrigðul hugðarmálum sínum.

E. P. J.

# A Letter From Norway

The Lutheran Women's League,
In Convention at Lundar, Manitoba, September, 1950.
Dear Friends:

Little did I think, when I was with you a year ago, travelling on the S. S. Keenora from Selkirk to Hekla in order to attend our annual convention there, that in so short a time I would be travelling on the ocean liner, Empress of Canada, spending seven days on the Atlantic ocean, then seven days in London and two days on the North Sea on my way to Olso, Norway. It is still so surprising, almost unbelievable, to me.

I have been in Oslo now for four months and nine days and have learned to like it very much. The climate is very moderate, never extremely hot nor extremely cold, and it is so calm. In spring and summer Oslo is a very pretty city with its large trees, blooming bushes and variety of flowers, with its picturesque fjords and mountain scenery. It is also a very interesting city, but so far I have not had opportunity to see all the spots of historic and cultural interest, but hope to do so during my three and one-half years of service here.

The Norwegian people are very friendly and congenial. We Canadian girls are, however, disappointed in one respect, namely that the Norwegians are so anxious to practise talking English that we do not get a chance to speak Norwegian! We are learning to read and understand it, though, just for the sake of interest, not that we have to learn it.

I am very comfortable here in a nice apartment with other Canadian girls. I like my work and find it very interesting. I am in good health. All these are things I am most thankful for.

It is tragic hearing of the extremities in which the people of Manitoba, especially Winnipeg, find themselves through the terrible flood conditions. It is a matter of concern even here in Oslo, where the newspapers have carried pictures and articles about the floods, We also get airmail bulletins in the office from Ottawa, which have kept us up-to-date on the flood news. The latest records state that the flood is starting to recede, even if slowly, and I hope

it continues. The repair work is going to be a long and strenuous process.

I am going to miss your convention, I have attended and enjoyed so many of them, but I will be with you in thought, wishing you a pleasant and successful convention in every way. May God guide you in all your undertakings and decisions in connection with your good work.

With all good wishes to the many members whom I know, and to the League as a whole, I am,

Yours sincerely,
LILJA GUTTORMSSON

# A Tribute

We take pleasure in inserting a picture of Mrs. Bjorg Violet Isfeld in this number of Ardis. Her reputation as a conscientious and capable piano teacher has been well known for years throughout this city. She was president of the Winnipeg Teachers Association for two years and in that time introduced many new ideas and innovations in their musical activities. This last April she was elected president of the Manitoba Registered Music Teachers Association, where we know she will prove of great service through her executive ability.



Mrs. Bjorg Violet Isfeld

She has at all times given of her best, not only in musical circles but also in church and other organizations. Her sincerity of purpose, her unselfish service to a cause and her friendly cooperation has endeared her to her many friends and associates.

Ardis compliments her on her steady progress in her chosen field of work and wishes her continued success.

B.H.

# ÞJÓÐKUNN HJÓN EIGA GULLBRÚÐKAUP



**Dr. Rúnólfur og frú Ingunn Marteinsson**

Á föstudaginn þann 30. júní s.l. áttu þau Dr. Rúnólfur og frú Ingunn Marteinsson hálfrar aldar hjónabandsafmæli og var þess minst á heimili dóttur þeirra og tengdasonar, Dr. og Mrs. Payne, í bænum Ninette hér í fylkinu. Þau hjón hafa komið mikið við sögu íslenzkra mannfélagssamtaka vestan hafs, og njóta hvarvetna virðingar og trausts samferðamanna sinna.

## BETEL — HOME AND STAFF HOUSE



—Photo by V. J. Eylands

# Dagur á Betel

Eftir Mrs. ÁGÚSTU TALLMAN

Þetta er fimtudagsmorgun, bjartur og fagur. Við drögum upp gluggatjöldin. Sólin speglar sig í vatninu og sendir ylríka geisla sína á elliheimilið á vatnsbakkanum. Hvílík dýrðarsýn fyrir þá sem sjónina hafa! — Vökukonan fer nú að hvíla sig, verk hennar á kvöldin hefst með því að hún færir öllu vistfólki, kalda eða heita mjólk eftir því sem það óskar. Á nóttunni fer hún hljóðlega frá einu herbergi til annars að hlúa að þeim sem sjúkir eru; einnig lýtur hún inn til allra á tveggja kl. tíma fresti ef það skyldi þurfa einhvers með.

Fólkið er nú að koma á fætur. **Skuggabaldri** gamla — sóma kettinum — er hleyft inn. Menn fara að gá til veðurs, það þarf að athuga frostmælirinn, og „Barometerið" því margir af vistmönnunum hafa verið sjómenn. Svo þeir verða að vita um veður útlit.

Nú hringir borðbjallan til að kalla á fólk til morgun verðar. Kærkominn hljómur í eyrum þeirra sem snemma fóru á fætur. Allar máltíðir og annað er reglubundið og á sama tíma alla daga.

Nokkru síðar er aftur hringt klukku sem kallar til lesturs. Húslestur er lesinn sálmar sungnir og að endingu lesið sameiginlega Faðir vor. — Það sem fram fer í setustofunni heyrist nú um alla bygginguna gegnum há-talaranna sem herra Halldór Sigurðson gaf heimilinu síðastliðinn vetur. Er það mikil blessun fyrir þá sem ekki komast ofan í lestrar salinn.

Að lestri afloknum fá allir fyrirmiðdags kaffi: Nú byrjar athafnalíf dagsins fyrir alvöru, þeir sem hraustari eru hjálpa hinum lasnari t.d. með að skreppa í búð til að kaupa eitthvað smávegis. Starfsfólkið fer nú að vinna af kappi hver við sína vinnu.

Frá eldhúsinu leggur angandi matarilm því nú líður að miðdagsverðartíma. Klukkan hringir — allir setjast til borðs — borðbæn er lesin á Íslenzku. Að máltíðinni lokinni leggjast allir til hvíldar fyrir tveggja tíma bil. Þegar komið er á fætur er drukkið eftirmiðdags kaffi. Fólk spyr hvert annað hvert presturinn hafi komið. Já séra Sigurður Ólafsson prestur Selkirksafnaðar, er kominn til að flytja guðsþjónustu og eiga svo tal við fólkið meðan tími

gefst. Hann kemur einusinni í hverri viku síðan prestlaust varð á Gimli. Komur hans á þetta heimili færa öllum sem hér eiga heima mikla blessun, og skilja við þá styrkari og öruggari. — Nú líður síðari hluti dagsins, máske nokkrir gestir séu komnir að sjá sína, ef til vill eru sumir þeirra komnir langt að. Slíkar heimsóknir lifa lengi í endurminningunni.

Mikil eftirvænting er ætíð þegar von er á heimsókn frá Kvennfélögum. Konurnar koma þá með kaffi og sælgæti — Svo er sungið og lesið upp og skemt sér sem best. Oft færa konurnar gjafir stofnuninni eða einstaklingum.

Nú líður að kvöldmatartíma — enn er sest að borðum. Eftir máltíðina safnast fólk saman í setustofunni á miðloftinu, og Jónas Björnsson, vinnumaður heimilisins les sögur upphátt til mikillar gleði fyrir alla. — Jónas lokar bókinni — hver og einn fer til herbergis síns. Allir sem vilja fá heita mjólk undir svefnin.

Við göngum hjá herbergisdyrunum og heyrum tvær elskulegar konur syngja íslenzkan kvöldsálm — og lesa kvöldbæn segja svo „Guð gefi þér góða nótt.“

Húsið er hljótt — alt hljóðskraf er hætt og vissulega umvefur friður Guðs gamalmenna heimilið Betel.

   

Ef einhver annar hefði skrifað ofaskráða grein, hefði ekki verið farið framhjá því hve mikin þátt að húsmóðurin á Betel á í því að gera hvern dag gleiðríkann. Má það með sanni segja um Mrs. Tallman, ekki síður en fyrirrennara hennar. —**Ritst.**

---

„Nú veit ég að ellin er engum köld
sem eygir hugsjónalönd
því þar á æskan og vorið völd
þar verður hver sælustund þúsund föld
og andinn á engin bönd“.



# Heimsókn á Borg

Eftir LAUGU GEIR

Það var einn virkan dag að ég heimsótti elliheimilið Borg á Mountain. Þegar ég hafði komist inn úr stóru dyrunum stanzaði ég snöggt. Hvar mátti ég stíga? Alt var svo hreint og fágað eins og aldrei hefði neinn stígið á gólfið. Datt mér í hug að alt heimilisfólkið hefði flutt í burtu. Nei ekki hann Helgi með hamarinn. Hann er ætíð að finna á fyrsta gólfi með hamar eða sög í hendi. Hann gerir við alt sem aflaga fer, og honum er það að þakka að altaf er hlítt á Borg „Þó vetrar geisi stormur stríður". Hann er maður sem hjálpar til með rúllupylsur. Það veit ég því um jólin heyrði ég matreiðslukonuna skipa honum að sitja á einhverju fargi sem hún hafði sett á pylsu sem honum var ættluð, en fargið var of létt sagði hún. Hann þver neitaði að gera þetta, sagði að sér væri ekki til setu boðið! — Þannig var það nú, því hann og Sveinn vóru í mestu önnum við að smíða hillur.

Ég hafði mig inn í skirfstofu þar sem forstöðukonan sat við skriftir og gerði reinkingsskap yfir ráðsmensku sinni. — „Hvernig gengur það nú Gunna mín" segji ég „Ó bærilega, nokkrir eru með kvef svo ég þarf að gæta þeira á nóttunni". „Þarft þú aldrei að sofa?" spurði ég. „Ó jú", segir hún „við Ólína reynum að vitja um alla að minsta kosti einusinni að nóttunni." Ólína Pálson er aðstoðar forstöðukona, þessar konur, í hvítu búningunum sínum minna mig á vermdar-engla sem vaka yfir velferð annara.

Guðrún bauð mér að lítast um hvar sem mér sýndist, svo ég fór í stóru stofuna á öðru gólfi sem er borð og setustofa í einu lagi og rúmar um hundrað manns. Báran hefir gefið bláa stóla, í samræmi við nafn sitt, borð og legubekki í minningu um Johannes Jónasson sem stundaði læknisstörf á frumbýlings árunum. Á veggnum er listaverk eftir Emil Walters.

Hér sátu nokkrar konur, sumar að prjóna aðrar að lesa, allar svo vel búnar að ég hélt þetta væri einhver tillidagur. — Nei, þær sögðu það væri engin hátíð, þær væru svona búnar hversdagslega. Ég hafði orð á því við Jóhönnu hvað hárið hennar væri fallegt. „Ekki er það mér að þakka“ segir hún „Blessuð Ólína sér um að þvo á okkur hárið og hjálpa þeim sem ekki geta greitt sér“. „En Pálína hefur farið í snirtistofu“ segi ég „lokkarnir hennar gráu sýna það“. „Já“, segir hún „ég fékk stúlku til að koma að gefa mér Tony wave“ (Pálína Thorðarson, frá Upham, var áður yfirsetukona í þessari bygð og mörgum kunn.) „Ertu að halda þér til fyrir einhverjum karlinum hérna“ sagði ég. „Kann vera“, svarar hún kankvís. „Bara að þú værir ekki altaf að flækjast hér“.

Ég spyr Þuríði hvert hún viti hver hann sé „Líklega sá sem á nýja bílinn“, segir hún. „Allar kepptumst við að komast í framsætið, en það verður líklega hún Begga matreiðslukona, allir hafa matar ást á henni.“ (Kristbjörg Ásmundson matreiðslukona.)

Svo berst talið að því hve gaman var á öskudaginn þegar allir karlar voru látnir bera ösku — annan eins öskudag höfðu þær ekki lifað síðan á Íslandi — líka var minnst á hve skemtilegt hefði verið á íllviðrisdögum í vetur að hlusta á Björn og Guðríði Thorfinnson — þarna kom Björn með bók í hendi, honum tekst svo snildarlega að skemta fólkinu — auk kvæða kann hann svo mörg sönglög, hann les manna best og segir svo vel sögur að unun er á að hlusta. —

Ég spyr eftir Bjarna og er sagt að um þetta leyti sé hann að finna í eldhúsinu, þar sé hann að þurka diska. — Svo hitti ég Bjarna. Hann var búinn að þurka upp. „En hvað þú ert orðin spik feitur“ segi ég. — Samsinnir hann það og segist aldrei hafa átt eins gott á ævi sinni.“ Nú kemur Siggi með póstinn. Honum var gefin taska í jólagjöf til að bera póstinn í. Mér þykir vænt um að Siggi er á Borg. Hann er uppáhald allra í byggðinni. Siggi Johnson á engin náin skyldmenni, en prúðmenni eins og hann á alla að. Það er tilhlakk þegar hann útbýtir póstinum á Borg.

Ég vitja Kristínar Halldórson, elstu konunnar á heimilinu, 96 ára. Heyrn og sjón hafa sljófgast en hugsunin er skír er fylgist með öllu sem er að gerast í heiminum. „Viltu ekki gefa mér fallega rúmið og kommóðuna þína Kristín mín“ segi ég. „Ég dáist að þessum ljósu húsmunum, og ábreiðuna tæki ég af rúminu ef þú sætir ekki á henni og gluggatjöldin líka“ hún hló að þessu. Ég sá að alt var í því samræmi að engu mátti hnupla svo hitt nyti sín og fór því út tómhent.

Ég heimsótti Guðbjörgu Snæfeld, hafði hún dottið þann dag og var í rúminu, þegar ég spurði hana því hún hefði farið að detta svaraði hún „Ég er altaf að yngjast upp, svo ég hélt ég væri svo ung að ég gæti hlaupið.“

Þarna var Una móðir vinar míns Victor Sturlaugsonar, hefur hún ekki grátt hár á höfði sem mun stafa af því hve góð hún er. Hún er að tala við þýzku og frönsku konurnar sem eru nýkomnar. Þær eru að tala um blinda manninn sem misti móður sína í brunanum í Walhalla og fær nú skjól á Borg. — Aðalheiður er að lesa. Snirtileg er hún eins og þegar ég sá hana fyrst.

Ég klifra uppá þriðja gólf í sauma herbergið — tveir stórir gluggar til norðurs og vesturs gefa gott útsýni. Þarna hitti ég tvær systur séra Jóhanns Bjarnasonar — Thorbjörgu Eyjólfson og Ósk Johnson. Þar er Singer saumamaskína knúð af rafurmagni, þar eru eikar ruggustólar sem einusinni voru á sjúkrahúsi í Grafton — endurnýaðir sem væru þeir rétt komnir úr versluninni.

Á sama gólfi er bókahlaðan þar eru gluggar í suður og austur sem gefa útsýni um alla bygðina. Þar hitti ég Jón Bjarnason sem er bókavörður og krónprins Borgarbúa. Þar er mikið af ágætum bókum enskum og Íslenzkum og Jón segir að meira muni koma. „Báran sér um það“ segir hann „Það er margt sem berst með Bárunni“ — allar bækurnar hefir Jón skrásett.

Nú á ég eftir að hitta Mrs. Holm í þvottaherberginu á neðsta gólfi. „Hér er ekki vatns-skol á gólfinu“ segi ég „nei“ segir hún „ekki með þessum vélum.“ Svo sýnir hún mér hvernig þær gleypa í sig þvottinn og spýta honum svo út hreinum og næstum þurrum. Þá tekur Mrs. Holm stóra straujárnið og gerir meistaraverk á hverri flík, — þetta er sýnishorn af því hvernig daglega vinnan gengur.

Þó allir dagar séu góðir á Borg er þó sunnudagurinn bestur.

um í Reykjahverfi. Hann var að sögn í ætt við Gísla í Skörðum, en ekki kann ég að lýsa þeim skyldleika.

Næsta ár fluttu þau vestur um haf, og bjuggu síðan á þessum stöðum: fyrst í Selkirk nokkra mánuði, þá í austurbygð nýlendunnar í Minnesota tvö ár; síðan í Selkirk aftur, fjögur ár; þá enn í austurbygð, 39 ár, frá 1898 til 1947; brugðu þá búi og fluttu til Minneotabæjar og lifðu þar síðustu árin.

Aldrei söfnuðu þau miklum auði, Ingjaldur og María; mátu meir æðri kröfur lífsins, og æfileiðin reyndist þeim erfið hvað eftir annað. Ingjaldur slasaðist illa við skógarhögg í Selkirk og lá marga mánuði rúmfastur. Hann varð aldrei al-heill af því meiðsli. María lá þungar legur í Minnesota hvað eftir annað; varð að sæta holskurði tvisvar í Rochester.

Tveir synir Maríu, efnismenn báðir, dóu á undan henni. Sá eldri, Ólafur, lézt í herbúðum á Frakklandi í nóvember 1918, skömmu eftir vopnahléð, þegar hún eðlilega taldi hann úr lífshættunni. Influenzan skæða sem þá geysaði, varð honum að bana.

Annan son sinn, Kristján, misti María á milli jóla og nýárs, árið 1941. Hann var kaupsýslumaður mikilsmetinn; dó af hjartabilun í Mankato, Minnesota. Tók hún sér missi hans mjög nærri, þá komin nálægt áttræðu.

María var farin mjög að kröftum líkams og sálar síðustu árin. Önnuðust hana í þeim erfiðleikum Ingjaldur bóndi hennar og Clark sonur þeirra, svo lengi sem þeir gátu, en Margrét ekkja Kristjáns veitti þeim aðstoð eftir föngum, þótt í fjarlægð væri. Hún býr með börnum sínum í St. Paul.

Í sumar var Maríu komið fyrir á hjúkrunar-heimili í Marshall. Þar lifði hún síðustu mánuðina, lengst af rúmföst og andaðist þar nálægt janúar-lokum eins og fyr var sagt.

María var skáldmælt vel; lætur eftir sig allmikið af ljóðum, bæði frumsamið og þýtt, þar á meðal nokkra sálma. Hún orti mörg tækifæriskvæði.

Þau hjón voru meðlimir Vesturheims og St. Páls safnaða. María var í mörg ár skrifari kvenfélagsins Ísafold. Hún var trúuð kona. Síðustu mánuðina þegar hún vissi lítið af sér framar, þá var henni trúin ríkust í huga. Hún lofaði gæzku Guðs mjög fagurlega, svo lengi sem hún gat nokkuð talað.

María var lögð til hvíldar í grafreit Vesturheimssafnaðar, fimtu-

daginn 27. janúar. Stóðu margir vinir yfir moldum hennar, þó kalt væri veður.

Auk Ingjaldar manns síns og Clarks sonar þeirra lætur María eftir sig fjögur barnabörn, og tvö börn í þriðja lið.

G. G.

## Yfir brimgarðinn

*Sólsetur, stjarna stök*
*og stund með boð til mín.*
*Og ekkert kvein þá ómi' í brimsins nið*
*er ég hverf lands úr sýn.*

*En bylgjan hreyfist eins og svefns á arm*
*og engan veki hreim.*
*Er það, sem upp af undra djúpi steig*
*snýr aftur heim.*

*Kvöldfriður, klukknahljóð,*
*og kyr og þögul nótt.*
*Og engin tár né andvörp, þá á fley*
*ég einn stíg hljótt.*

*Því þó að berist langt frá stund og stað*
*með straumum knörrinn minn.*
*Ég hafarann minn sjálfan vona að sjá,*
*er siglt hef brimgarðinn.*

---

# MARGARET STONE

**1892 — 1949**

Margaret Stone was born at the Narrows, Manitoba, on the fourth of December, 1892. Her parents were the late Jön Sigurdson and Pálina Thordardottir. Margaret received her education at Wesley College, in Winnipeg and at the Collegiate in Selkirk, Man. After obtaining her teacher's diploma she taught at several schools in rural Manitoba and wherever she taught she left the imprint of her kindness and love of humanity.



**Margaret Stone**

On December 29th, 1914, Margaret married Thorstein Stone, who predeceased her in February, 1944. Margaret followed him to her rest in August, 1949. They were blessed with eight children — five of whom survived their parents — John Timothy, Gordon Clifford, George Albert, Margaret and Dorothy. Margaret and Thorstein are also survived by two grandchildren, the son and daughter of Timothy and his wife, the former Margaret Scott. Their daughter Margaret is married to Terence Algeo. Margaret is also survived by three brothers and twin sisters, Sigriður, of Swan River, Emma of Morden, Anna Forsyth of Eriksdale. Herman of Churchbridge, and Aðalsteinn of Eriksdale.

Margaret Stone was for many years an active member in the Woman's Association of the First Lutheran Church in Winnipeg. She gave of her time and talents unsparingly and was beloved by all her co-workers. .

L. GOODMAN

# JOHANNA EAGER

**1890 — 1950**

Johanna Eager was born in Winnipeg on December 10th, 1890 —the daughter of Ingveldur Thorsteinsdottir and Finnur Stefanson. After completing her education Johanna worked in the office of Bulman Bros. until her marriage to Harry Eager in July, 1919. They had two sons William Headley and Garry Robert. After she suffered the loss of her husband in 1927 — Johanna carried on, making a good home for her two sons, with their welfare always uppermost in her heart and mind.



**Johanna Eager**

Both her sons served overseas in the Royal Canadian Air Force and then Johanna had to endure the sorrow of Williams death in the line of duty in December, 1943. Robert was returned to her side after being held prisoner of war for many months.

Johanna passed on to her rest March 10th, 1950 after a lengthy illness, pain and suffering of which she bore with great fortitude and strength of spirit. She is survived by her son Robert, who is married to the former Mary Camsell, a grandaughter Susan Mary and two sisters Nia Thompson and Lara McAlpine of Winnipeg and two brothers, Stefan of Vancouver, and Fredrick of Fort William.

Johanna was a life long member of the First Lutheran Church of Winnipeg and for many years served faithfully as a member of the Woman Association of that Church.

FREDA JONASSON

# SIGRÍÐUR TERGESEN

**(Fædd 26. janúar 1871 — Dáin 24. janúar 1950)**

Þessi merkiskona var kölluð heim til hinna eilífu bústaða á síðastliðnum vetri eftir umfangsmikið og fagurt dagsverk. Sætið auða sem hún eftirskilur verður ekki auðfilt, jafnvel þó önnur sæti kunni að vera vel skipuð.

Sextán ára að aldri kom Sigríður frá Íslandi til Canada, eftir stutta dvöl þar lá leið hennar til Bandaríkjanna þar sem hún giftist eftirlifandi manni sínum Hans Pétri Tergesen, árið 1888. Fluttu þau brátt til Canada. Eftir nokkra ára dvöl á ýmsum stöðum fluttu þau til Gimli í ársbyrjun 1899. Þar dvöldu þau ávalt síðan. Þar var hið mikla starf Sigríðar af hendi leyst, á umfangsmiklu heimili, í starfi kvennfélags og í safnaðarstarfi í hinni lútersku kirkju sem hún unni af óskiftum hug. Um margra ára skeið var hún í hópi leiðtoga safnaðarins, var einnig forseti kvennfélagsins lengi og heiðursforseti þess hin síðari ár. Margir eru einnig minnugir þess hvernig hún rétti hlýja og gjafmilda hönd þeim sem bágt áttu. Það gerði hún með hógværð hins yfirlætislausa kærleika.

Sigríður Tergesen er ógleymanleg þeim sem náin kynni höfðu af henni persónulega og þeim sem með henni störfuðu að félagsmálum. Við munum hina trygglyndu, smávöxnu konu, sem ávalt var svo glaðlynd og róleg, sem var svo undur skemtileg og fyndin í sínum hóp. Við munum hve góð hún var vinum sínum hve aðalaðandi og fagurt hún gerði heimili sitt. Við munum og blessum minningu hennar á sérstakan hátt fyrir það að hún stóð ávalt sem „klettur í hafinu“ sem öldurót hafði engin áhrif á, þegar um félagsmál var að ræða.

Sigríður var gjæfu menneskja. Hinn ágæti eiginmaður hennar og hún störfuðu sem einn maður að því sem til góðs leiddi fyrir heimilið og umhverfið. Andrúmsloft heimilisins var ávalt aðlaðandi og skemtilegt og allur heimilishringurinn var tengdur innilegum kærleiksböndum. Það veitti henni gleði að geta tekið inn í heimilishringinn þrjár bróðurdætur manns hennar þegar þær, á unga aldri, mistu móður sína. Dvöldu þær um nokkur ár á Tergesens heimilinu, sú yngsta þeirra frá barnæsku til fullorðins ára. Sömuleiðis taldi hún það mikla gjæfu að elsta dóttir þeirra

hjóna hvarf heim á æskuheimili sitt aftur eftir að hún hafði mist mann sinn og dvaldi þar ávalt síðan. Vóru þær mæðgur sérstaklega samrímdar alla æfi og með aðdáanlegum kærleik og nákvæmni hjúkraði dóttirin móður sinni hina síðustu mánuði þegar kraftar tóku að dvína.

Með þessum fáu minningar orðum vilja félagssystur og vinkonur Sigríðar Tergesen vefa lítin minningarsveig og leggja á gröf hennar sem þakklætis og virðingar vott. Þær þakka guði fyrir áhrif hennar og starf.

Hvíl í Guði — góða nótt.

—INGIBJÖRG J. ÓLAFSSON

---

Ég sé þig, Guð, í sólargeisla ljóma,
ég sé þig, Guð, er stjörnubirtan skín,
ég sé þig, Guð, í bikar vorsins blóma,
í bládögg hverri lýsir dýrðin þín.
Ég sé þig, Guð, í silfurskærum bárum,
ég sé þig, Guð, í kristalstærri lind,
ég sé þig, Guð, í sorgardjúpum tárum,
og sál mín geymir ljós frá þinni mynd.

Og rödd þín, Guð, sem bergmálsómur blíður
mér berst að eyrum, friðarmild og skær,
er himinblærinn hlýtt um vanga líður
og hafsins bylgja létt við ströndu hlær,
er ómar fuglinn út um geiminn bjarta,
og ungbarn hjalar vögguljóðin sín.
En innst og dýpst í helgri kyrrð míns hjarta
ég heyri ljúfust kærleiksorðin þín.

H. J.

# INGIBJÖRG PÁLSDÓTTIR JOHNSON

**Fædd 7. sept. 1864 — Dáin 22. nóv. 1949**

Hún var fædd á Kjartansstöðum í Skagafjarðarsýslu á Íslandi 7. sept. 1864. Foreldrar hennar voru hjónin Páll Pálsson og Guðbjörg Björnsdóttir. Föður sinn misti hún þegar hún var sjö ára að aldri. Var hún þá tekin til fósturs og dvaldi hjá fósturforeldrum sínum á Marbæli í Skagafjarðarsýslu næstu tuttugu ár. Hún giftist eftirlifandi manni sínum, Baldvin Johnson, á Íslandi 3. júní 1897. Þau fluttu frá Íslandi árið 1900 og dvöldu í tvö ár í N. Dakota. Fluttu til Árdalsbyggðar og námu þar land árið 1902. Áttu þau þar heima síðan. Þau eignuðust tvær dætur er báðar lifa móður sína og eru búsettar í Árdalsbyggð: Sigurlín Ingibjörg Johnson og Emily Rósa Vigfússon.



**Ingibjörg Pálsdóttir Johnson**

Ingibjörg var gædd ágætum gáfum og hafði unun af lestri góðra bóka. Var hún sérstaklega ljóðelsk og kunni mikið af fögrum ljóðum. Minnist ég þess að hún lærði utanbókar þau ljóð sem hrifu hana er birt voru í íslenzku blöðunum, alveg fram á síðustu ár. Hún var kona er dró sig í hlé og lét lítið á sér bera en inti störfin af hendi í kyrþey með mikilli prýði. Lundin var föst og trygg en á sama tíma viðkvæm. Hún var umhyggjusöm eiginkona og móðir og reyndist sannur vinur vina sinna.

Mörg hin síðustu ár dvaldi Ingibjörg og maður hennar á heimili yngri dóttur þeirra og tengdasonar, Emily og Jóhanns Vigfússyni, þar leið þeim vel. Þar naut hún hinnar alúðlegustu umönnunar í löngu sjúkdómsstríði. Ástvinirnir tóku höndum saman að láta henni

líða eins vel og unt var. Að kvöldi þess 22. nóvembers síðastl. kom hvíldin er hún hafði þráð.

Þegar ég virði fyrir mér myndina sem þessu fylgir af Ingibjörgu sem ungri stúlku minnist ég þess með viðkvæmni að hún og móðir mín dvöldu um tíma á sama heimilinu á Íslandi. Tókst þá með þeim það ástríki sem entist alla æfi. Viðkvæma, gáfaða litla stúlkan sem tók sér svo nærri að skilja við móður sína á sjö ára aldri varð móður minni svo kær og ógleymanleg — og nú gleðst ég að hugsa um þær tvær, báðar ungar aftur í annari tilveru þar sem skýin eru horfin og sólin skín í heiði.

*„Nú stíg ég glöð við stiltan hreim*
*frá stjarnanna dýrðar löndum.*
*Sem barn mér finst ég borin heim*
*af blessuðum engla höndum.*

*Svo renn ég sátt mitt síðsta skeið*
*við sorgir og æfikvíða.*
*Sem rökkurþoka á röðulleið*
*mér raunir frá brjósti líða".*

*Ingibjörg J. Ólafsson*

---

# VILBORG JÓNSDÓTTIR

**(Fædd 31. maí 1881, dáin 28. ágúst 1949)**

Hún er fædd að Fornastekkum í Hornafirði á Íslandi. Foreldrar: Jón Jónsson og Þórdís Halldórsdóttir. Þau hjón eignuðust 3 börn: Halldóru, Jón og Vilborgu. Frá Fornustekkum fluttu þau hjón, ásamt börnum sínum til Vesturheims 1893, og settust að í Ísafoldarbyggð, (nú Howardville), sem er norður af Riverton, Man. Heimili þeirra þar, var nyrst í þeirri bygð, er nefndur var „Heytangi". Bjuggu þau þar í 8 ár, en þá flæddi byggðin út að mestu leiti 1901, fluttust þau, þá í þessa bygð, nefndu landið Framnes, sem byggðin hefir nafn sitt frá. Þar önduðust gömlu hjónin. Hún 1907, en hann 1911.—



**Vilborg Jónsdóttir**

Að þeim látnum, tóku systkinin: Jón og Vilborg við búinu, héldu uppi sama myndarbrag sem áður var þar. — Árið 1922 brugðu systkinin búi, og fluttu til Winnipeg. Héldu byggðarbúar þeim virðulegt samsæti að skylnaði. En frá Winnipeg fluttu þau eftir fá ár til Lake Winnipegosis. Þar dvöldu þau til dánardægurs. Jón andaðist 1944, en Vilborg 28. ágúst 1949.

Vilborg var vinsæl og skýr, sem hún átti kyn til. — Á fyrstu árum Framnesbyggðar, var eins og vanalega á sér stað, þá sest er að á vilt land, að enginn mátti liggja á liði sínu, ef vel átti að fara, margt var að vinna. Vilborg fór ekki varhluta af slíku. Móðir hennar, var farin að eldast, en fósturdóttir foreldra hennar, Sigríður að nafni Jóhannsdóttir á skóla aldri, hvíldu því innanhússtörfin að miklu leiti á henni, sem hún leysti príðilega af

hendi, var þar ætíð unaðslegt inn að koma, þó húsið væri ekki í nýtísku formi.

Í kvenfélagsmálum byggðarinnar, tók Vilborg mikinn þátt, og var að vanda liðtæk í bezta lagi. — Gestkvæmt var oft í Framnesi, því Jón bróðir hennar var póstafgreiðslumaður, frá því Framnespósthús var stofnað 1904, til 1922.—

Ég sem þessar línur skrifa, var ásamt konu minni og barni, hjá þessari fjölskyldu, fyrsta veturinn minn í þessu landi (1902—1903). Var það, sem við hjónin værum í foreldra húsum, ekkert var of gott til okkar, frá þeirra hendi. — Geymum við hjartkærar minningar allrar fjölskyldunnar til æfiloka.

Nú öllu er lokið! — Æfi þín er liðin, þig alfaðirinn kallaði til sín. Í hópinn þinna, himneska í friðinn, þar hef ég von að sjá þig vina mín.

—B. J. HORNFJÖRÐ

---

Margs er að minnast,
margt er að þakka;
Guði sé lof fyrir liðna tíð.
Margs er að minnast,
margs er að sakna;
Guð þerri trega-tárin stríð.

# ELÍZABET HALLGRÍMSSON

Elízabet Hallgrímsson var fædd að Eyrarlandi í Eyjafirði, 28. maí, 1877. Hún fluttist til þessa lands árið 1889, tólf ára gömul, með foreldrum sínum, Hallgrími Helgasyni og Kristbjörgu Árnadóttur, og settist fjölskyldan að nálægt Garðar, N. Dakota.


Elízabet Hallgrímsson

Á landnámsárum áttu margir erfitt með að koma upp heimili og afla lífsviðurværis fyrir sig og sína. Eldri börnin voru þá látin fara að vinna strax og nokkurt lið var að þeim, og fóru því mörg þeirra alveg á mis við alla skólamentun. Af þessum ástæðum fór Elízabet aldrei á skóla, en snemma hefir hún víst sýnt dugnað og myndarskap, því seytján ára gömul gjörðist hún ráðskona hjá ekkjumanni, Þorsteini Hallgrímssyni. Nokkru seinna, árið 1894, giftist hún Þorsteini.

Eftir nokkurra ára búskap að Garðar, fluttu þau árið 1900 til Nýja-Íslands og námu land við Framnes. Þar bjuggu þau í nítján ár, en fluttu þá vestur til Argylebygðar og settust fyrst að nálægt Brú í austurparti bygðarinnar, en færðu sig eftir fá ár í vestur-bygðina þar sem þau áttu heimili til æfiloka.

Heimili þeirra Þorsteins og Elízabetar var jafnan bjart og vingjarnlegt. Húsmóðurinni var mjög vel sýnt um að gjöra húsið vistlegt og heimilislegt, þó efni væru sjaldan mikil fyrir hendi. Hún hafði næman fegurðarsmekk, var nýtin, vandvirk og hirðusöm, sparsöm og iðjusöm alla daga. Þó hún væri ekki skólagengin hafði hún mentast af lestri góðra bóka og hafði mikla ánægju af lestri, hvort heldur voru fræðibækur eða skáldskapur. Á yngri árum sínum tóku þau hjónin mikinn og góðan þátt í kirkjulegum félags-

skap og voru kirkjurækin. Bæði voru þau mjög gestrisin og alúðleg, skemtin og ræðin heim að sækja, og vildu öllum gott gjöra. Elízabet var vinum sínum mjög trygg, tók einlægan þátt í kjörum þeirra og hafði næma og djúpa samúð með öllum sem bágt áttu. Stjúpsonum sínum reyndist hún sem bezta móðir, og var jafn annt um velferð þeirra og sinna eigin barna. Henni var mjög umhugað um að þau yrðu öll vandað og gott fólk, enda var hún þeim góð fyrirmynd.

Í veikindum manns síns, sem var rúmfastur nokkur síðustu ár æfinnar, sýndi Elízabet mikla nákvæmni og fórnfýsi, og stundaði hann af mestu alúð og umhyggjusemi þar til hann fékk hvíldina í hárri elli árið 1936.

Á heimili dóttur sinnar og tengdasonar átti Elízabet rólegt og bjart æfikvöld við ágæta umönnun þar til hún var burt kölluð 22. okt. 1946. Eftirlifandi börn þeirra hjóna eru: Sigurður, Hallgrímur og Ingunn, Mrs. Ó. Ólafsson, öll við Glenboro, Man. Stjúpsynir Elízabetar eru: Th. I. Hallgrímsson, Cypress River og Líndal J. Hallgrímsson, nú í Vancouver. Tveir bræður hennar, sem eftir lifa af ellefu systkinum eru: Jón H. Helgason að Garðar og Árni Helgason við Morden.

*S. Sv.*

---

Far þú í friði,
Friður Guðs þig blessi,
Hafðu þökk fyrir alt og alt.
Gekst þú með Guði,
Guð þér nú fylgi,
Hans dýrðarhnoss þú hljóta skalt.

# ODDNÝ GÍSLASON

**1881 — 1949**

Hún var fædd að „Flatatungu" í Skagafjarðarsýslu á Íslandi 17. sept. 1881. Foreldrar hennar voru Jón Gíslason og Sæunn Þorsteinsdóttir.

Árið 1883 fluttist fjölskyldan til Vesturheims og settist að í grend við Hallson, N. Dakota. Tíu árum síðar andaðist faðir hennar, en móðir hennar og eldri systkini bjuggu þar áfram til ársins 1899 að þau fluttu til Morden bygðar, og hér í þessari sveit hafa spor hennar legið ætíð síðan.



Oddný Gíslason

Systir hennar Anna Ingibjörg og maður hennar Jón J. Gillis fluttu hingað árið eftir, og var Oddný sáluga á þeirra heimili af og til. Hennar yndi var að hlynna að báðum heimilunum.

Oddný sáluga var framúrskarandi vönduð og góð manneskja. Sívinnandi og hress í anda. Hún trúði á sigur hins góða og lagði sig alla fram til þess að styðja og hjálpa öðrum. Hún elskaði kirkju sína og allan góðan félagsskap og hafði yndi af lestri góðra bóka.

Eftir dauða systur sinnar stjórnaði Oddný sáluga heimilinu og var börnunum sem önnur móðir þar til Jón féll frél944. Eftir lát hans fluttist hún til systurdóttur sinnar og manns hennar, Mr. og Mrs. W. E. Ólafson, og á því heimili dó hún snögglega 2. júní, 1949. Hún var jarðsungin 6. júní af séra E. H. Fáfnis frá Mountain N. Dak.

„Flatatungu"-systkinin voru fimm sem upp komust: Anna, (Mrs. Jón S. Gillis) andaðist 1927, og Dr. Gísli G. Gíslason 1934.

Tveir bræður lifa systur sína, Jón M. Gíslason og Thorsteinn J. Gíslason, báðir búsettir hér.

*„Sárt þín vinir sakna*
*Sambönd ytri rakna*
*Við hið dimma rauðans hlið,*
*En hinn innri þáttur*
*Andans kærleiks máttur*
*Slitnar aldrei, varir við".*

L. T. G.

---

Ég lifi í Jesú nafni,
í Jesú nafni ég dey:
Þó heilsa og líf mér hafni,
hræðist ég dauðann ei.
Dauði, ég óttast eigi
afl þitt né valdið gilt;
Í Kristi krafti ég segi:
Kom þú sæll, þegar þú vilt.

# GUÐNÝ JÓNSDÓTTIR PAULSON

Hún var fædd 17. september 1867 á Skeggjastöðum í Jökulda í Norður-Múlasýslu, dóttir hjónanna Jóns Magnússonar og Stefaní Jónsdóttur, er þar bjuggu þá. Rúmlega 9 ára gömul fluttist hún me foreldrum sínum vestur um haf í „stóra hópnum“ svo nefnda settist fjölskyldan að í Argyl byggð, og þar mun Guðný haf alist upp að nokkru leyti. Hú var ein með allra fyrstu inn-flytjendum hingað af Íslandi sem ruddi sér braut til mennta og gaf sig að kennslustörfum. Kendi hún á ýmsum stöðum svo sem Churchbridge, Mikley og Hnausa. Árið 1892 (9. nóv.) giftist hún Magnúsi Paulson, Winnipeg, og var heimili þeirra lengst að 784 Beverley St. þa í borg. Magnús lézt í marz mán-uði árið 1923, en Guðný 17. júlí 1950. Fór jarðarför hennar fram frá Fyrstu lútersku kirkju á fimtudaginn 20. júlí að við-stöddu fjölmenni. Hér fylgi meginmál erindis þess sem sóknarpresturinn, séra Valdimar J. Ey-lands, flutti við það tækifæri:



**Frú Guðný Paulson**

Eins og kunnugt er, átti ég ekki kost á að kynnast Guðnýu heitinni fyrr en á þessum síðasta áratugi ævi hennar þegar hún var búin að lifa fulla þrjá aldarfjórðunga, og átti að sjálfsögðu allan blóma, og mestan starfstíma ævinnar að baki sér. Þó varð mér strax ljóst að hér fór óvenjulega fjölhæf og vel gáfuð kona, með mjög sterkan persónuleika, og nokkuð sérstæða skapgerð. Munu því allir sem til þekkja telja það sannmæli sem stendur í fyrirsögn yfir andlátsfregn hennar í nýprentuðu „Lögbergi“ (20. júlí 1950) **„Merk kona látin“.** Hún var merk kona sakir eiginleika sinna, og afreka á heimili sínu og í þessum söfnuði. Samtíðarmaður

hennar einn, sem ekki er þó gefinn fyrir að hæla mönnum eða málefnum um skör fram, (J. J. B.) segir um Guðnýju í æviminningu manns hennar, 14. júlí 1923: „Guðný er ein af allra myndarlegustu konum sem ég hefi kynnst meðal Vestur-Íslendinga. Hún er prýðisvel gefin, menntuð, góð og umhyggjusöm eiginkona, hógvær, glaðlynd og prúð“. Þetta er fallegur vitnisburður, og mikils virði vegna þess að hann mun sannur.

Þeim Magnúsi og Guðnýju varð ekki barna auðið, en í tvö skifti opnaði hún heimili sitt og hjarta fyrir annara manna börnum, og gekk þeim í móðurstað í lengri eða skemmri tíma. Í fyrra skiftið voru það börn tengdabróður hennar, Wilhelms Paulson, en hve lengi þau dvöldu á heimili hennar er mér ekki kunnugt. Í síðara skiftið voru það fjögur börn **Helgu** yngstu systur hennar, Mrs. Fred Bjarnason, er hún lézt frá þeim ungum. Munu þau öll hafa dvalið hjá henni um þriggja ára bil, en yngsta barnið, **Magnús** varð kjörsonur hennar og ólst upp hjá henni að fullu. Taka kjörsonarins reyndist Guðnýju hið mesta gæfuspor; hann reyndist henni hinn ástríkasti og umhyggjusamasti sonur, og hefir alið önn fyrir henni, — þrátt fyrir mikla fjarlægð nú á síðari árum — með svo mikilli alúð að fágætt má telja. Er öll framkoma Magnúsar gagnvart henni sem gekk honum í móðurstað honum til hins mesta sóma, og mun hann fyrir það hljóta virðingu allra góðra manna sem til þekkja.

Auk stjúpsonarins lætur Guðný eftir sig þrjú systkini, Þórunni Stewart og frú Önnu Stephenson, báðar í Winnipeg, og Svein, búsettan í Edmonton.

Guðný hefir lokið óvenjulega miklu og farsælu dagsverki. Vér þökkum henni og blessum minningu hennar“.

**V. J. E.**

---

# MINNING MÆTRAR KONU

Þann 30. júlí síðastliðinn lézt með skömmum fyrirvara frú Oddný Johnson, Ste 11 Acadia Apts., hér í borginni, á fjórða ári hins níunda tugar, fædd í Skógum í Axarfirði í Norður-Þingeyjarsýslu 6. október 1866. Foreldrar hennar voru Einar Þórarinsson og Sigríður Oddsdóttir, mæt hjón og merk.



**Frú Oddný Johnson**

Daginn áður en andlát frú Oddnýjar bar að, var hún alveg eins og hún átti að sér, ástúðleg í viðmóti og létt í spori; maður gleymir ógjarna slíkum konum, sem frú Oddný var; háttprýði var henni auðsjáanlega í blóð borin og fasmildin jöfn og ótrufluð hvað, sem að höndum bar; mér fanst kjörorð hennar jafnan vera það, að láta gott af sér leiða, að veita birtu og yl inn í vitundarlíf samferðamanna sinna, og þetta lánaðist henni svo afdráttarlaust, að eigi varð um vilst.

Frú Oddný kom til þessa lands árið 1884, og þann 9. október 1886 giftist hún Guðjóni (William) Johnson frá Hjarðarfelli í Snæfellsnessýslu, er lézt í marz-mánuði 1945; þeim varð margra mannvænlegra barna auðið; af þeim dóu fjögur á unga aldri, en hin, sem lifa eru þessi: Nellie (Mrs. P. Thorlakson) Minnie (Mrs. P. Sveinson) Lincoln Guðjón, Einar Leo, Helgi Elmer, Gladys Palmer, Eileen Pridham og Pauline Johnson.

Frú Oddný var jarðsungin frá Fyrstu lútersku kirkju þann 4. ágúst að viðstöddu miklu fjölmenni. Séra Valdimar J. Eylands jarðsöng; við útförina söng tengdabróðir hinnar látnu, Alex Johnson, einsöng.

Um minningu frú Oddnýjar mun jafnan bjart verða

E. P. J.

# President's Report

Members and delegates of the Lutheran Women's League:

Owing to the drastic results of the recent flood in Winnipeg and Southern Manitoba, we were unable to continue with our convention on schedule. The Lundar Community was overflowing with evacuees, and the members of the Ladies' Aid of Björk, expressed the wish to have it postponed as they were assisting in this emergency, and felt they could not have a convention on top of the many people they were helping at that time. We were glad to comply with their wishes in this time of distress.

The Camp was placed at the disposal of the Red Cross during the flood emergency, and put in order, ready for occupancy at a moment's notice. Our Camp Director was on the premises for three days, before we were notified that all group camps had been cancelled, owing to the cold weather that prevailed for so long at that time. But now we look forward to opening the gates and welcoming our children and adult campers. With Gods help and assistance of a good and qualified Camp Director and her staff, we look forward to a wonderful season.

I would like to stress upon all our people to earnestly develop a camp conscious attitude, to be ever alert to any support or benefits they can bring towards helping to improve and enlarge our camp. We are building for the future. Putting forth our little efforts now, can be of great value to point the youth of today to a more democratic and tolerant tomorrow. Helping our youth to come under the Christian fellowship which prevails at Sunrise Lutheran Camp, can be a strong factor in governing future paths.

Our Sunrise Lutheran Camp has been in operation for only five years, (although the L.W.L. have sponsored a Camp period every summer for some years) and already it has been recognized as one of the best in this part of Manitoba. Its record of religious training, and high standard of Camp facilities has given it a place second to none in the Manitoba Camping Association and the Red Cross, as well as in the Council of Social Agencies.

It is the ultimate goal of the Lutheran Women's League and its Board of Directors that we maintain this high standard. In order to do this, we are faced with the fact that additional buildings

as well as equipment will be needed in the immediate future. Ou attendance is increasing every summer. We are very happy abo that. But we must be prepared to accommodate them, withou congestion in the buildings. I appeal to all our communities t launch a further financial assistance, in order that we may constru small huts, that will accommodate ten to twelve children and leader. Having the smaller huts, simplifies the work of the leade and is more satisfactory from every point of view. We are prou of our Camp. But it must be a growing pride. Let us all striv to push a further effort to improve and enlarge this worthy projec Let it be an undying credit to us of Icelandic origin, something ou children as well as children of other faith and race can point t with pride that they had been in attendance at our camp.

As most people know now, we formed a "Children's Trus Fund." The object of this fund is to assist children, who throug financial reasons are not able to avail themselves of the opportunit of going to Camp. This fund depends on voluntary contributions fo its upkeep. I would like to suggest that we encourage our childre to take a part in keeping this fund built up. The Sunday Schoo throughout our communities could take charge of distributing bag or tins with a suitable designated band to every member of thei Sunday School. This will encourage the children to help some othe children less fortunate. I offer this suggestion for your consideratio

It has been a custom for three years, that some member offer to collect the names of delegates and friends at each conventio and embroider those names on a quilt made for the camp. Th 1948 quilt was worked and beautifully finished by Mrs. H. S Erlendson, Arborg. There is an outstanding difference in this quil A hand painted picture of our Camp in its original color is place in the centre. This exceptional work was done by Miss Josephin Olafsson, daughter of Rev. and Mrs. Olafsson, Selkirk. I know al our members join me in thanking Miss Olafsson for her lovel work.

A woman who at various times has shown her generosit toward the work of our camp, came forth last fall when fund needed a boosting to meet payments of insurance renewals as wel as other obligations. This member donated the second chest o silver for the purpose of selling tickets to raise money. This effor netted us five hundred and twenty dollars. We extend our grateful

appreciation to Mrs. Anna Magnusson, Selkirk, Treasurer of the Board of Directors of Sunrise Lutheran Camp.

The Sunday School Committee has not been able to make any visits to the interlake districts as had been planned. Further efforts in this work will be discussed at the convention.

Ardis has been published as usual. The only difference this year will be the omission of the minutes of the Convention. Our sincere appreciation goes to the Editorial staff as well as the Business committee for their untiring and exacting work, in placing such a creditable edition before the public.

Our Board of Directors for Sunrise Lutheran Camp has been faithful in executing their duties for the Camp, having as its aim the continued upkeep and progress, it's members are ever alert to its welfare in every way. I often feel that the average member can't realize the tremendous work the members of the Board do, both in time spent and actual labor. The chairman of the Board of Directors donated all the folders that were sent out to the different districts with the Camp schedule, as well as a thousand single sheets with the schedule, for distribution in church bulletins and elsewhere. The trips that he has made to the Camp to do work are too numerous to mention. Dr. Eyolfur Johnson of Selkirk, has done a tremendous amount of work also as well as making many trips and bringing men down to work on the grounds. So has Mr. Sveinn Palmason of Winnipeg Beach. The Lutheran Women's League are greatly indebted to these men, as well as to the women members of the Board. Thank you from the bottom of our hearts.

At the last meeting of the Board of Directors it was the unanimous opinion of its members, that a man should be hired to be caretaker for the Camping period.

In conclusion I thank each and every one who in any way assisted me in my work as president of the Lutheran Women's League. It has been an honor to be your representative. I feel I have lacked in many respects. Everyone has been most kind. I would have wished to visit the many Aids within the L.W.L. But this was not possible this year. My humble gratitude goes out to our Past President for her valuable assistance at all times. When I have fumbled in the darkness of my inexperience, I have reached out and found her kind and loving outstretched hand ready

to place it in mine, to give me strength and courage, and share he wealth of experience and wisdom to smooth the path before m I thank Mrs. Ingibjörg J. Olafsson from the bottom my heart.

May Gods blessing crown each and every endeavor of th members of the L.W.L.

Respectfully submitted,
FJOLA GRAY

---

# Sunrise Lutheran Camp

The camping season of 1950 was in many ways encouragin Each summer, as we close camp, those that have attempted to bea some of the burden of the work, are apt to feel weary and quit spent. They look back and wonder perhaps, is it worth while?—wil there be any fruit harvested from our labors?—Looking back ove the season just ended I repeat that it was encouraging and beyon any doubt well worth while.

There were six groups at our camp this summer. We wer very fortunate in being able to obtain splendid leadership wit all groups — the leaders that fitted so well in with each grou These were Rev. and Mrs. E. H. Fafnis with Leadership Trainin Rev. Eric Sigmar and Harvey Hedley with Senior boys. Mrs. Laug Johannesson acted as matron with that group. Junior boys wer under the leadership of Rev. S. Olafsson, assisted by Harvey Hedle Mrs. S. Sigurgeirson acting as matron. Junior girls' group wa directed by Mrs. Sigurgeirson, assisted by Mrs. S. Stefanson for th first four days. For the remainder of the period Mrs. A. H. Gra took Mrs. Sigurgeirson's place and was assisted by Mrs. Stefanso The last group, that of Senior girls, was directed by Mrs. H. G Henrickson and Mrs. I. W. Hart. With each group there was trained nurse, swimming instructor and Junior Leaders, also diningroom hostess.

Each group had a public concert at their closing night. All o which were fairly well attended, although the final night alway seems to draw the largest crowd.

Our Ladies' Aids have been with us in spirit this summer as before, many of them sending donations of various kinds. A list of these will be published in our Icelandic weekly "Logberg".

In closing I wish to thank all our campers for being such fine girls and boys at camp, co-operating so well in every way. I also thank all leaders for splendid work done at camp. And finally, I wish to leave with our readers a picture of the closing item of the program of the closing night of each group at camp. That is the ceremony at the cairn. **And what is the cairn?** Those of you who never visit our camp will not know—others who have been there may think that the cairn is only a pile of stones on the camp grounds, each stone bearing the initial of the person that laid it there, also the date. Those who have attended some of our closing concerts will know that after the closing hymn has been sung the campers file out, lead by their Dean, each one carries their stone, which has been carefully selected and initialled before. They march to the cairn and form a circle around it. The audience from the hall follow. Reverent silence reigns. The campers sing their opening hymn. Each group with its Leader steps nearer to the cairn; in unison they repeat a pledge which has been memorized and explained during the daily teaching periods. With the stone they lay, they pledge themselves to noble living in a closer fellowship with God. When all have laid their stones, a prayer is offered by the pastor in charge. Another verse is sung in unison. The Lord's prayer is repeated and benediction pronounced. Thus closes the session of each of our groups in Camp.

The cairn remains, and grows from year to year—a monument to the work that is being done at camp—a monument built by every camper that has attended our Sunrise Lutheran Camp. A reminder of a sacred promise given, reminding each one of us that:

> "We would be building: Temples still undone
> O'er crumbling walls their crosses scarcely lift
> Waiting till love can raise the broken stone
> And hearts creative bridge the human rift.
> We would be building, Master let Thy plan
> Reveal the life that God would give to man."

INGIBORG J. OLAFSSON.

# Chairman's Report for 1949
## Sunrise Lutheran Camp's Board of Directors

While I have not made it a rule to present what might be called "chairman's remarks" on the occasion of the first meeting of the year nor attempted to give any resumé of the past year's activities or coming year's objectives, I feel I have, to that extent, enjoyed the kind consideration of this Board for not having been taken to task for this breach of official etiquette.

I have not in mind at this time to present any resumé, for our brief time must of necessity be confined to urgent business, and it is for reasons of facilitating such business that I have prepared an outline of the matters that will be up for our consideration and possible disposal.

Because of the major matters that we will be concerned with and which will require our best thought in forming a policy on, it might become necessary to by-pass the less important matters and authorize the executive to act on them as they become due for attention.

The first important item before this meeting would be that of definitely deciding on establishing the office of a camp supervisor (or director). Perhaps we feel this has already been done and I agree partly so, but I wish it to be emphasized from the chair and in black and white that it be considered so important that should that office not be filled by a qualified person that we need not expect the affairs of the camp to be run as efficiently as good camp administration calls for. Further reference to this for the guidance of our deliberations will follow.

The second item is that of planning the camp periods and deciding on their length and composition and assisting personnel.

The third matter is that of determining the camp fees in which connection we must take into consideration all operating factors, not only expense and administration costs but also coverage fees for medical attention and liability insurance for claims that could arise in case of any accidents.

The foregoing provides ample material for a brief afternoon meeting and I am doubtful we will succeed in covering the ground as thoroughly as desirable, but in event we do not complete the

agenda, a further meeting at an early date would be in prospect in order to complete any unfinished business on matters of policy, staff organization or camp group divisions. In the interval I will see to it that every member of this Board be provided with a copy of this paper so in case of a further meeting we can come prepared with our suggestions or decisions.

Now to come back to the number one matter, that of a camp director. At our last meeting the motion was introduced and adopted to the effect that a Supervisor (or Director, which might be the more suitable term) should be appointed, who would be charged with full camp administration, management and authority —or such was the idea. We felt at the time that this covered everything and was so intended to do, but further clarification is necessary to definitely define the director's duties.

First let it be mentioned that we must all realize the tremendous responsibility attached to the office of the "on the spot" manager. From experience and observation that most of us have had to date, we know these duties are manifold and can be very exacting.

The director would probably find herself with a full-time job on her hands during the camp season, with little time left to devote to her own personal or home affairs. It is only natural that anyone approached to take on these duties would want time for thoughtful consideration before acceptance.

In addition to these considerations, a supervisor must possess business and executive ability as well as qualities of personality that would command respect and confidence from co-workers and camp patrons alike.

All factors considered, any office calling for a person with such specialized qualifications suggests a remunerative position which most certainly should have our recognition.

In that respect I fear that any offer we would be in a position to make would at the best amount to only a token stipend.

At our last meeting a member of this Board we all know to be fully qualified for this position in the person of Mrs. Ingibjorg Olafsson was nominated for this office. She requested time for considering this nomination and while she still remains the nominated candidate I am sure that should she still desire further time before giving her final answer, that this meeting will extend to her that consideration in the hope that the Board will be the ultimate gainer through her favorable decision.

A suggested directive defining the duties and authority of a camp director has been prepared and a copy will be distributed to each member of this Board. This directive or code of authority should be discussed at this meeting and passed on.

The other two matters mentioned, that of camp periods and (enrollment) fees, will be dealt with in their order, but I suggest that the matter of camp fees may be referred to the executive and our prospective director, to bring in a recommendation on at our next meeting.

While I am no doubt overlooking some other matters that should be mentioned, I will let these remarks suffice at this time for I am certain that we will catch up on the various other items in the course of our discussions.

Before concluding my remarks, it is a cause for regret to us all, I am sure, that reference has to be made to the sickness of our Board member, the Rev. B. A. Bjarnason, who is confined to his home and prevented from being with us. I have been informed that he is recovering which is heartening news, and on behalf of the Board, I express to him our sincerest wish for a speedy return to good health and the hope that he will be with us with his valued services at an early date.

With our other ailing member, Mr. Martin Jonasson, I understand there is no improvement and our sympathy is expressed to his wife and family in their extended trials.

I am sure our main concern is that of what is best in the camp's interests and that we are not looking for individual "pats on the back" but I feel I would be remiss if I didn't acknowledge our indebtedness to our Treasurer, Mrs. Anna Magnusson, whose generous gift of silverware last fall enriched our treasury to the sum of $521.90. Our thanks to you, Anna.

Finally, I express my personal thanks to you who have given time to attend this meeting and particularly to those of you from outside points and to all members of this Board unavoidably absent as well as present, who have at all times co-operated in one way or the other in making our camp an operating venture in serving our younger children and youth, and so contributing to a training designed to help build healthy bodies, happy hearts and purer minds.

S. O. BJERRING, Chairman.

# *With Grateful Thanks . . .*

to all the contributors, advertisers
and others, whose kind assistance
has made possible the publication
of this book.